Propemŏdum, hart nær under þad.

Propemodò, *idem.*

Propior, jus, sa sem er nær, nalægre, propius vero est, þad er lijklegra, þad synest sannara, propior montem erat, hann var nær Fiallenu.

Proximus, a, um, nærstur, nalægastur, via proxima, sa næste vegur, e proximô, ut af Nagrenneun, in proximo, i Nagrenni vid oss, *sic & proximus genere, sangvine,* skylldaste, nanasti, & *absol.* proximus, Naunge, hinn nakomnaste.

Proximĕ, nærst, nalægast, proxime hostem, urbem esse, ad vera nærst Ovinunum, nærst Borgenni, proxime accedere ad verum, ad komast sem næst þvi sanna.

Proximitas, tatis, *f.* 3. Naungasemе, nakomnar Teingder, Nagrenne.

Propinqvus, a, um, nalægur, 2. nakomenn, naskylldur.

Propinqvè, nærre, nalægt.

Pro-pinqvitas, tatis. *f.* 3. Nalægd, Nagrenne, 2. nakomenn Skyldugleike, Frændseme, Teingder, Sifskapur.

Propinqvo, avi, atum, are, 1. eg nalgast, nalægest, kem nær, er i adsige, propinqvare alicui, ad nalægia sig einhverinum, 2. flijte mier, flijte, hrada, hasta.

Appropinqvo, avi, atum, are, 1. eg nalgast nalægest, flijte mier til.

Appropinqvatio, onis, *f.* 3. Nalægd, Tilkoma.

PROPĔRUS, a, um, Snar, fliotur, hradur, hvatur.

Properĕ, fliotlega, snarlega, hvatlega.

Propero, avi, atum, are, 1. eg flijte, hrada, hasta, properare iter, ad flijta Ferdinni.

Properatus, a, um, giørdur med flijter.

Properatio, onis, *f.* 3. Flijter, Hvatleike, Hrade.

Properantia, æ, *f.* 1. *id:*

Properantèr, hvatlega, fliotlega, hradt, skiotlega, *comp.* tius.

Properatò, *idem.*

Appropero, avi, atum, are, 1. eg skunda, flijte til, approperatum opus, þad verk, sem giørt hefur vered med flijter.

De-

Depropero, avi, atum, are, 1. eg giøre med Skyndi, Flijter, hefe Hastenn a.

Improperus, a, um, seiñ, sigalegur, *poet:*

Impropero, avi, atum, are, 1. eg flijte mier inn, 2. eg flijte mier ecke, er seinastur, seiru *poet:* 3. eg hreite fram̃, kasta i naser, bregd um, so sem annañ Løst.

Præproperus, a, um, miøg hradur, fastur, ofbradur, sa sem hefur ofmikenn Flijter.

Præproperè, miked fliotlega, med storum Haste og Flijter.

Præproperanter, *idem.*

PROPINO, avi, atum, are, 1. eg dreck til, propinare alicui salutem, ad drecka einum til uppa hans Velferd, 2. propinare aliqvem deridendum, ad fram̃ selia einn til Spotts og adhlaturs, studla til þeß hann verdi hæddur og spiadur.

Propinatio, onis, *f.* 3. Adryckia.

PROPITIUS, a, um, gunstigur, nadigur, milldur og godur.

Propitio, avi atum, are, 1. eg forlijka, fridþæge, utvega einum Gunst og Nad.

PROPōLA, *m.* 1. Varnings madur, sem kauper Voru, og selur hana aptur langtum dijrara.

PROPRIUS, a, um, eigenlegur, it. varanlegur, prorium hoc oratoris est, þad heyrer einum Mælskumanne til sierdeilis, þad er hønum eigenlegt.

Propriè, eigennlega.

Proprietas, tatis, *f.* 3. Eigenlegleike, eigenn Nattura.

Improprius, a, um, oeigenlegur, ohagkvæmur.

Propter, *vide* PRO.

PROPYLÆUM, *n.* 2. Forgardur, Fordyr, Forskigne fyrer fram̃an meire hattar Hus og Kyrkiur, Støpull, *græc.*

PRORA, æ, *f.* 1. Barki a Skipe, Fram̃stafn.

Proreta, *m.* 1. Skipmadur sem situr i Fram̃stafnanum og giæter ad þvi ad skiped fare ecke uppa Sker edur Grinningar, Vegvysare til Sios.

PRORSUS, alldeilis,ølldungis, 2. prorsum, *vel* prorsus, beint afram̃.

PROSA, æ, *f.* 1. obundenn Ræda, sem eingen Skaldskapur er i.

PROSAPIA, *f.* 1. Kynslod, Ættqvijsl, Ætt, Slecktc, *antiq:*

PROSPER, a, um, luckulegur, langiefenn, lansamur, æskelegur, farsæll, giæfusamur, heppen, *compar.* ior, errimus, *invenitur & prosperus*, a, um.

Prosperè, luckulega, epter Oskum, *comp.* ius, errime.

Prosperitas, tatis, *f.* 3. Lucka, Farsæld, giæfa, Lan, æskeleg Heppne.

Prospero, avi, atum, are, 1. ad farsæla, giefa Lucku til, ad lata ganga ad Oskum.

Improsper, a, um, oluckulegur, ofarsæll, ogiæfusamur, olansamur, oheppenn, olanlegur.

Improsperè, oluckulega, olanlega, ohappalega.

Præprosper, a, um, miked luckulegur.

PROSTIBùLUM, *n.* 2. almennleg Skiækia, Hora, Lausakona.

PROTERVUS, a, um, trassugur, vanartugur, motviliugur, stijfenn, þibbenn, þverudarsamur, o-bill, svæsen, o-svifenn, odæll, obilgiarn, ofyrerlatsamur, leidur.

Protervè, trassulega, þverudarsamlega, vanartuglega, areitingasamlega, motviliuglega, bligdunarlaust.

Protervitas, tatis, *f.* 3. Þvermoska, o-fyrerlatseme, Areiting, Aras, Trassugheit, Þrioska, Þverudarseme, Motþroe, Osvifne, Vondska, Vanart.

PROTHYRUM, *n.* 2. lijted Skigne, forgardur fyrer framannu minne-hattar Hus, *græc.*

PROTINUS, *adv.* beint aframm, *tum est adv. loci*, 2. *adv. temp.* strax, jafnsnart, jafnodum, strax uppa hendena, under eins, 3. þar epter, framveigis, 4. leingra og leingra afram, *scribitur &* Protenus.

PROXENETA, *m.* 1. Medalgangare, sa sem giører Aftal og forlijkun manna i millum, *græc.*

PRUDENS, entis, *o.* 3. forsiall, fram syn, klokur, for-

forstandugur, forfarenn, 2. framsyn, sa sem veit nockud fyrer fram, prudens præter eo, eg sleppe þvi af asettu Rade, geing vijsvitande þar fram hia, *comp.* tior, tissimus.

Prudentèr, forsialega, forstanduglega, vijslega, *comp.* ius, issime.

Prudentia, æ, *f.* 1. Forsialne, Framsyne, Forstand, it. Vitund, Reinsla.

Imprudens, entis, *o.* 3. oforsiall, oframsyn, vadgiætinn, galaus, 2. ovitandi, sa sem ecke veit af einu adur.

Imprudenter, oforsialega, galauslega, af Vanvitsku, Vangiætslu, Vanga, ovitanlega, ius.

Imprudentia, æ, *f.* 1. Oforsialne, Oframsyne, Vanvitska, Vanga, Vankunnatta.

PRUiNA, *f.* 1. Hrim-Frost.

Pruinosus, a, um, fullur med Hrim-Frost.

PRUNUS, i, *f.* 2. Plumutrie.

Prunum, i, *n.* 2. Pluma.

PRURIO, ivi, itum, ire, 4. mier klæar, mig fidrar, mig kitlar.

Pruritus, us, *m.* 4. Fidringur, Klade, Kitl.

Prurigo, inis, *f.* 3. Kladi, Fidringur.

PSALLO, li, 3. eg sijng, spila, leik uppa Hliodfære, *græc.*

Psaltrius, ii, *m.* 2. Saungvare, Hørpuslagare.

Psaltria, æ, *f.* 1. Saungkvinna.

PSEUDOTHYRUM, i, *n.* 2. Laundyr, Leinedyr. *græc.*

PSILOTHRUM, i, *n.* 2. einslags Vintrie, 2. Vidsmiør, sem tekur Hared burt, *græc.*

PSIMMYTHIUS, *m.* 2. *vel* Psimmythium, *n.* 2. Bleikhvita, *græc.*

PSITTăCUS, i, *m.* 2. Papagoe. *græc.*

PSORA, æ, *f.* 1. slæm Utbrot, Vos og Klade um Lijkamann, *græc.*

PTISANA, æ, *f.* 1. Velling, *propr.* Byggvelling, item Grion, *græc.*

Ptisanarium, *n.* 2. Grionagrautur, ptisanarium oryzæ, Hrijs-griona-grautur.

PTYAS, adis, *f.* 3. einslags banværn Eitur-ormur, sem spyr Eitrenu, *græc.*

PUBES, is, *f.* 3. Maga-har, Bligdan, Ungdomur, ynges menn, tota Italiæ pubes,

bes, allt yngeß-folk i Vallande.

Puber, eris, *o.* 3. ungur, uppvarande, sa sem er af ømaga alldre, puber ætas, mindugur alldur, 2. *transl.* pubera folia, fullvaxenn blød.

Pubes, is, *o.* 3. *idem.*

Pubertas, tis, *f.* 3. Ungdomur.

Pubens, tis, *part:* *o.* 3. vaxenn, fullordeñ, pubentes herbæ, rosæ, fullvaxnar Jurter, Roser.

Pubesco, ere, 3. eg verd fullvaxenn, 2. *transl.* pubescunt fruges, Korned er fullvaxed, pubescunt vites, Viintrien blomgast, og bera Avøxt, prata pubescunt, Eingiarnar eru fullsprottnar.

Impūber, impubes *vel* impubis, e, miøg ungur, Barn ad alldre, ómindugur; *ut:* puer impubes, Pilltur a ómaga alldre, malæ impubes, Kiñvangar, a hverium ecke er teked til ad spretta Skiegg.

Repubesco, ere, 3. eg verd ungur uppa ny.

PUBLICUS, a, um, almeñelegur, openber, openberlegur, sa sem øllum heyrer til, publicum bonum, almeñelegur godi, publica via, almennings vegur, jus publicum, almennelegur lands riettur, lands løg, versari, vel esse in publico, ad uñgangast med Folke opennberlega, egredi in publicum, ad ganga fram a almanna fære, 2. publicum & *plur.* publica, Tollar, Skattar og Tiunder, redimere publica, ad forpakta, kaupa fyrer vist Eptergialld, fyrer vissa Peninga, Kongsens Skatta og Tijunder.

Publicè, almennelega, openberlega, 2. uppa Folksens siidu, Riikenu og Landenn til besta.

Publicitus, *idem.*

Publĭco, avi, atum, are, 1. eg giøre almennelegt, openberlegt, publicare librum, ad lata Bokena ganga ut, publicare corpus suum, ad lata bruka sig sem eina Hóru, 2. giøre upptækt, publicare civium bona, ad taka til sin, sla eign sinne yfer Gots Borgaranna.

Publicatio, onis, *f.* 3. Upp-

Uppteft fiarens til Yfervalldsens.

. Publicanus, i, *m.* 2. Tollheimtumadur.

PUDET, puduit & puditum est, ere, 2. þad bligdar, þad skam̃ast, þad bligdast vid, pudet me dicere, eg skam̃ast min ad segia fra þvi, pudet me facti, eg skam̃ast min fyrer þad verk, *&c. alia enim persona præter tertiam non æque sunt in usu.*

Pudens, tis, *o.* 3. bliugur, bligdunarsamur, sa sem skam̃ast siin fyrer Odygder, *comp.* tior, tissimus.

Pudentèr, med bligdan, bligdunarsamlega, hæverskLega, *comp.* ius, issime.

Pudendus, a, um, skam̃arlegur, smanarlegur, vanvirdelegur, sa sem madur ma skam̃ast siin fyrer, pudenda vita, skam̃arlegt Lyferne, pudenda dicta, skam̃arleg Ord.

Pudibundus, a, um, bligdunarsamur, hreinferdugur i Ordum og Toktum.

Pudicus, a, um, skirlijfur, hreinlijfur, it. bligdunarsamur, bliugur, *comp.* cior, cissimus.

Pudicè, med Tugt og Æru, *comp.* cius.

Pudicitia, æ, *f.* 1. Skijrlijfe, Hreinlijfe, ærlegt Framferde, Tukt og Æra. mulier amissa pudicitia, saurlijfs kona, sem hefur mist Tugt og Æru.

Pudor, ris, *m.* 3. Bligdunarseme, Otte fyrer Skøm og Vanæru, 2. Skøm, Vanvirda, Hadung *hinc* pudori esse, ad vera til Skam̃ar, 3. Æra, Sæmd, pudorem defuncti tueri, ad forsvara Æru og Sæmd þess fram̃lidna i Grøfenne, auferre pudorem virgini, ad vanvirda eina Jomfru, kreinkia hana.

Depudere, ad skam̃ast sin ecke, hafa einga bligdan i sier.

Dispudet, ere, ad skam̃ast sin mikelega.

Impudens, tis, *o.* 3. bligdunarlaus, o-bliugur, *com:* tior, tissimus.

Impudenter, Bligdunarlaust, *com:* tius, tissime.

Impudentia, æ, *f.* 1. Bligdunarleise.

Sub-

Subimpudens, tis, *o.* 3. nockud obliugur, bligdunarlaus.

Impudicus, a, um, oskyrlijfur, otuktugur, lauslatur, liettferdugur, *sup:* issimus.

Impudicitia, æ, *f.* 1. Ohreinlyfe, Otukt, Lauslæte.

Propudium, ii, *n.* 2. eitt bligdunarlaust sticke, hin stædsta Hadung, 2. slæmt Asskum, andstygdarGaud.

PUER, ri, *m.* 2. Barn, Svein barn, Pilltur, lytell Dreingur, allt þar til hann er 15. ara gamall, a puero vel â pueris, fra Barndome, ex pueris excedere, ad slijta Barnskonum, komast af omaga alldre, 2. Picnare, Sveirn, Dreingur, 3. Sonur, 4. *in allocut: bland: ut:* ne facite hoc pueri, giøre þid ecke þetta Børn min.

Puerulus, *dim. m.* 2. dalijtid Dreingkorn, lijtid Barn, sma Barn, 2. lijtill Sonur.

Puellus, i, *idem.*

Puella, æ, *f.* 1. Pijka, Stulka, Mey-barn, Stulkubarn, 2. *in genere,* kvenmans Persona.

Puellula, æ, *dim: f.* 1. lijtel Stulka, lijted Mey-barn.

Puellaris, e, sa sem heyrer til ungum Stulkum.

Puellariter, epter ungra Stulkna vijsu.

Puerilis, e, sa sem heyrer til Børnum, 2. barndomslegur, bernskulegur, favyslegur, consilium puerile, barndomslegt Rad og Fyrerteckt.

Pueriliter, uppa barnavijsu, it. barndomslega.

Puerilitas, tis, *f.* 3. Barndomshattur, Bernska, 2. Barndomur.

Pueritia, æ, *f.* 1. Barndoms alldur, a pueritia, fra Barndome.

Puerpera, æ, *f.* 1. Sængurkona.

Puerperium, ii, *n.* 2. Barnburdur, Barnburdar-Sæng, puerperio cubare, ad liggia a Sæng, (Barnburdar-Sæng.)

Repuerasco, ere, 3. eg kemst aptur i Barndom.

PUGIL, is, *m.* 3. sa sem berst med Knefum.

Pugilatus, us, *m.* 4. Knefaleikur.

Pugilatio, onis, *f.* 3. *idem.*

Pugillus, *vide* PUGNUS.

PU-

PUGIO, onis, *m.* 3. Stickhnifur, Daggardur.

Pugiunculus, i, *dim. m.* 2. lijtell Stickhnifur.

PUGNA, æ, *f.* 1. Bardage, Orusta, Strijdsslag.

Pugno, avi, atum, are, 1. eg strijde, berst, slæst, puguare cum hoste, & in hostem, ad strijda vid Ovinena, pugnare pugnam, ad heya Bardaga, hallda Slag, 2. præte, kieppe, 3. er i mot, cum vita ejus pugnat oratio, hans Ræda er þvert i mote hans Lijferne, hañ keñer ødruvijs, enn hann lifer, inter se pugnare, ad prætast a sin a mille, 4. eg ber mig ad, neite orku, illud pugna & enitere, ber þu þig vid þad af øllum Kroptum.

Pugnans, tis, *o.* 3. sa sem strijder, þvert i mote ødrum, gagnstædur.

Pugnator, oris, *m.* 3. Strijdsmadur, Strijdskempa.

Pugnax, cis, *o.* 3. aflogasamur, barattusamur, prætugiarn, kijssamur, 2. kaskur, sterkur ramur ad afle, øflugur, ordugur i Strijde, *comp.* cior, cissimus.

Pugnacitèr, strijalldarlega, med Kijse og prætum, cius, cissimè.

Pugnacitas, tatis, *f.* 3. Stiriolld, 2. Prætugyrne, gyrnd til ad strijda, beriast og þratta.

Pugnatorius, a, um, sa sem heyrer til Strijde og Bardaga, arma pugnatoria, Strijdsvopn, Veriur.

Adpugno, avi atum, are, 1. eg strijde uppa.

Depugno, avi, atum, are, 1. eg strijde vid annañ, berst og slæst, 2. depugnatô prœliô, þegar Strijded var endad.

Expugno, avi, atum, are, 1. eg yfervinn, inntek i strijde, 2. expugnare alicujus pertinaciam, ad yfervinna einhvers Þralijnde, expugnare aliqvem oratione, ad yfertala einhvern.

Expugnatio, onis, *f.* 3. yfervinning.

Expupnator, oris, *m.* 3. sa sem strijder uppa og yfervinnur, *methap.* expugnator pudicitiæ virginis, Jomfru-kreinkiare.

Ex-

Expugnabilis, e, yfervinnanlegur, ſa ſem kann ad inntakaſt, it. ſa ſem kann ad kreinkiaſt.

Inexpugnabilis, e, oyfervinnanlegur.

Impugno, avi, atum, áre, 1. eg ſtrijde uppa, aſækie.

Impugnatio, onis, *f.* 3. Aſokn, Offokn, Areiting.

Oppugno, avi, atum, are, 1. eg ſtrijde uppa, ſtrijde a mote.

Oppugnatio, onis, *f.* 3. Aſokn, Offokn.

Oppugnator, oris, *m.* 3. ſa ſem ſtrijder amote, ſtrijder uppa.

Oppugnatorius, a, um, ſa ſem heyrer til ſtrijde og ſtiriolld, res oppugnatoriæ, þau Strijdsverkfære, med hverinn menn ſtrijda ogſtorma uppa eina Borg.

Perpugnax, cis, *o.* 3. miøg aflogaſamur, ſtiriallduſamur, þrætugiarn, kyſſamur, oaſlatſamur, perpugnax in diſputando, þver i diſputatiu.

Propugno, avi atum, are, 1. eg ſtrijdi fyrer, vernda, forſvara, propugnare pro patria, ad ſtrijda fyrer fødurlanded, propugnare commoda patriæ, ad forſvara Fødurlandſens Gagn og Beſta.

Propugnatio, onis, *f.* 3. Forſvar, Verndan, Verndarſtrijd.

Propugnator, oris, *m.* 3. ſa ſem ſtrijder ødrum til Hlijfdar, Verndar, Forſvars, hlijfdarmadur, forſvarsmadur.

Propugnaculum, *n.* 2. Hlijfdar-Mur, Skans, Feſting, Veria.

Repugno, avi, atum, are, 1. eg ſtryde a mote, repugnare alicui, & contra aliqvem, ad ſtrijda a mote einum, repugnare inter ſe, ad ſtrijda ſin a mille.

Repugnantèr, Motþroanlega, med Motſtande, Motþroa.

Repugnantia, æ, *f.* 1. Gagnſtædelegleike, Motþroi, Motſtand, ſior Ojøfnudur.

Repugnatorius, a, um, ſa ſem tilheyrer Motþroa, Motſtandi.

PUGNUS, i, *m.* 2. Hnefe.

Pugillus, *m.* 2. *dim.* Hnefafyller.

Pu-

Pugillaris, e, sa sem kañ ad fylla einn Hnefa.

Pugillares, *plur. m.* 3. Knefa Piølld, Skriftøblur.

Pugillare, is, *n.* 3. *idem.*

PULCHER, ra, rum, fallegur, frijdur, dæelegur, fagur, snillelegur, 2. knappur, ørdugur, duglegur, ferdugur, *scribitur* & pulcer, ra, rum.

Pulcrè, fallega, snoturlega, artuglega, pulchre dicere, ad tala snillelega, pulcherrimè factum, þad var ypparlega vel giørt, pulchre procedit, þad geingur vel og kostulega fram.

Pulchellus, a, um, nettur og snotur, lijtell og nettur.

Pulchritudo, inis, *f.* 3. Frijdleike, Asialegleike, Dæelegleike, Fegurd, Prijde, Snoturleike, Nettleike.

Perpulcher, a, um, miøg frijdur, og fagur.

PULEGIUM, ii, *n.* 2. þad Gras, *legitur* & Puleium.

PULEX, icis, *m.* 3. Floo.

Pulicosus, a, um, fullur med Flær.

PULLUS, *m.* 2. Unge, pulli aqvilæ, Arnar Ungar, pulli avium, Fugla Ungar, pullus gallinaceus, Hænu-Unge, pullus eqvinus, Folalld, Fole.

Pullarius, a, um, sa sem heyrer til Ungum, 2. pullarius *subst.* einslags Keñimadur Heidingiaña, sem tok mark a Fugla-Ungum eda þeirra Matar-tekt.

Pullaster, ri, *m.* 2. ungur Hane, Hana-Kydlingur.

Pullastra, æ, *f.* 1. ung Hæna.

Pullinus, a, um, sa sem heyrer til Ungum eda Folølldum, dentes pullini, Folallds Tennur.

Pullatio, onis, *f.* 3. sa time, a hverinn Fuglarner klekia ut Ungunum.

Pullities, iei, *f.* 5. Varp Ungaña, Utklekning, Utleidsla, it. þeirra Tingun.

Pullulus, i, *dim. m.* 2. lijtell Kvistur nijlega sprottenn.

Pullulo, avi, atum, are, 1. ad vaxa upp, skiota ut nyum Blomstrum.

Pullulasco, ere, 3. eg tek til ad vaxa og syna ny Blomstur, nya Avexte.

Repullulo, avi, atum, are, 1. eg sprett upp aptur, vex ad nyu.

Repullulasco, ere, 3. ad taka til ad groa, og skiota ut Blomstrum aptur ad nyu.

Repullesco, ere, *idem.*

PULLUS, a, um, svartur, diñur, bruñ, toga pulla, sorgar Kapa.

Pullatus, a, um, svart-klæddur, 2. audvirdelega bueñ klæddur, *hinc metaph:* pullati, þeir aud virdelegustu meñ medal Almugans.

Pullulus, a, um, Isvartur.

Pulligo, inis, *f.* 3. Sorta, jardsvartur Farve.

Pulmentum *vide* PULS.

PULMO, nis, *m.* 3. Lunga *usitat. in plur.* pulmones.

Pulmonarius, a, um, sa sem hefur Lungna-sott.

PULPA, æ, *f.* 1. Vødve, Vodvakiøt, 2. Pickilldi, þad fasta i Trianum næst vid Mergeñ.

Pulpamentum, i, *n.* 2. eitt gott kiøtstycke beinlaust, *transl. in genere*, liuffeingur matur.

PULPITUM, i, *n.* 2. Lofftbygging af Bialkum og Bordum; tilbueñ handa þeim sem añadhvert hallda Rædur til Folksens, edur hlijda þeim sem fram kvæma Tijdagiørder, Predikunar stoll, pulpitu.

PULS, tis, *f.* 3. Grautur, Kassa.

Pulticula, æ, *dim. f.* 1. þuñur Grautur, Velling.

Pultarius, ii, *m.* 2. Grautar-pottur, Grautar-panna.

Pultiphăgus, *m.* 2. sa sem etur Graut.

Pulmentum, i, *n.* 2. Musl, Spad, Sup.

Pulmentarium, *n.* 2. *idem.*

Pulmentaris, e, sa sem heyrer til Spade, Supe.

PULVINAR, is, *n.* 3. Kodde, Svæfell, Sessa, 2. til bueñ Beckur med Sessum og Svæfluñ, a hveriuṁ Heidingiarner lietu sina Afgudj sitia i Kyrkiunum, ad pulvinaria sacrificare, ad færa Bekia-forner.

Pulvinarium, *n.* 2. *idem.*

Pulvinus, i, *m.* 2. Sessa, Beckiardyna, 2. Røst, Reitur, eda Dalkur i Alldengørdum i millum Plogfarañа, 2. Sandstrøndingur med Sioarstrøndenne, it. Sandeyrar og Griñingar i Sionum, 4. Grundvøllud Bygging yfer Sio edur Vatne.

Pulvillus, *dim. m.* 2. lijtell Kodde, edur Dijna.

Pulvinulus, *m.* 2.

PULVIS, eris, *m.* 3. Dupt, Mollð, 2. *transl.* Plats a hveriu meñ reina Frækleik siñ 3. Erfiðe, Mæda, Omak.

Pulvisculus, i, *dim. m.* 2. þad smærsta Dupt, Rik.

Pulvereus, a, um, fullur af Dupte, Rike, Molldu.

Pulverulentus, a, um, *idem.*

Pulvero, avi, atum, are, 1. eg mel i sundur, steite i sundur, giøre smatt sem Dupt, pulverare vineam, ad melia Jordena i Vingardenum.

Pulveratio, onis, *f.* 3. Jardareñar Sundurmalning.

PUMEX, icis, *f.* 3. Vikurkol.

Pumicosus, a, um, opeñ, holottur.

Pumiceus, a, um, sa sem er af Vikurkole, 2. þur sem Vikurkol.

Pumicatus, a, um, fægdur, hudadur, skigdur.

PUMILUS, *m.* 2. & pumilo, *m.* 3. dalijted mañkorn, Dvergur.

Pumilio, *m.* 3. *idem.*

PUNGO, xi, ctum, ere, 3. eg sting, 2. *transl.* eg sære, angra, sting ad einum med Ordum, pungere acu, ad stinga Nal-spor, ignominia pungit, su Vanvirda stingur mig.

Punctio, onis, *f.* 3. & Punctus, *m.* 4. Stijngur.

Punctiuncula, *dim.* lijtell Stingur.

Punctim, med stijngum, punctim petere hostem, ad asækia Ovinena med stingum.

Punctum, i, *n.* 2. Punctur, Strik, Prik, 2. Partkorn, punctum temporis, Augna-blik, Vetfang, 3. Samþicke, Ja-ord, (*suffragia enim veteres punctis annotabant in tabella cerata*,) omne tulit punctum, hañ ødladest allra samþycke, hann fiell øllum vel i gted, 4. Tenings Auga.

Compungo, *idem quod*, pungo.

Compunctio, onis, *f.* 3. Stingur, Tak, compunctiones laterum, Sydustijngur, Tak.

Dispungo, xi, ctum, ere, 3. eg reikna nidur.

Expungo, xi, ctum, ere, 3. eg utslictte, utskef, expun-

pungi nomen ejus, *dicitur qvi debitum solvit*, þad er almennelega sagt, ad hans Nafn verde utstiettad, sem betalar sina Skulld.

Interpunctus, a, um, adgreindur, med Punctum og Strikum.

Interpunctio, onis, *f.* 3. Puncta Nidursetning, Adgreining, su sem skiedur med Punctum og Strikum, interpunctiones *sive* interpuncta verborum, Adgreining Ordanna med Punctum og Strikum.

Repungo, xi, tum, eg sting aptur.

Punio *vide*, POENA.

PUNICUS *vel* puniceus, a, um, liosraudur, fagurraudur.

PUPPIS, is, *f.* 3. Skutur, Bakstafn, a. *synech:* Skip.

PUPUS, i, *m.* 2. daliited Dreingkorn.

Pupulus, i, *dim. m.* 2. *idem.*

Pupa, æ, *f.* 1. Mey-barn, liited Stulkukorn, Snot, 2. Bruda, Brudukorn, sem Børn leika sier ad.

Pupula, *idem*, it. Augasteirn, Siaalldur.

Pupilla, æ, *f.* 1. *idem.*

Pupillus, i, *m.* 2. fødurleisingur, ømindugt pilltbarn, Omage.

Pupilla, *f.* 1. Stulku-barn, Stulku omage, Mey-barn, ømindugt og fødurlaust.

Pupillaris, e, sa sem heyrer til fødurlausum Børnum, pecuniæ pupillares, ø-maga gøts.

PURGO, avi, atum, are, 1. eg hreinsa, purgare alvum, ad hreinsa Kvidenn, bruka Purgatin, *transl:* affaka, purgare se alicui *vel* apud aliqvem de aliqva re, ad af saka sig um eitthvad fyrer einhverinnm, purgare crimen, probra, ad hreinsa sig af einnm glæp, frija sig fra vondum Aaustre, fra Brijx-yrdum.

Purgatio, onis, *f.* 3. Hreinsan, purgatio alvi, Hreinsan Kvidarens, 2. *transl.* Affsøkun.

Purgamen, inis, *n.* 3. *id: poet:*

Purgamentum, i, *n.* 2. Sorp, Dræste, Hrodi, Afrakstur.

Purgabilis, e, sa sem hreinsadur verdur.

Purgito, avi, atum, are, 1. *freq.* eg hreinsa optlega, affaka tiidt.

Ex-

Expurgo, avi, atum, are, 1. eg eg hreinsa vel, skíre, giöre gagnhreint, 2. *trop.* afsaka.

Expurgatio, onis, *f.* 3. Hreinsun, Skyring.

Interpurgo, avi, atum, are, 1. eg hreinsa a mille, interpurgare arbores & herbas, ad hreinsa a mille Eikanna og Jurtanna.

Perpurgo, avi, atum, are, 1. eg gagnhreinsa.

Repurgo, avi, atum, are, 1. eg hreinsa kostgiæfelega, giöre vel hreint, repurgare hortum, ad hreinsa Alldengardenn.

PURPURA, æ, *f.* 1. Purpura-skiel, Purpura-fiskur, 2. Purpura-farve, 3. Purpura-klædi, purpura fulgere, ad vera kostulega klæddur med Purpura. 4. *transl.* ha Embættes Tign og Æra.

Purpureus, a, um, sa sem er af Purpura, farvadur med Purpuralit, vestis purpurea, Purpura-klæde. color purpureus, Purpura-farve, it. Lifraudur, 2. *transl.* frydur, dægelegur.

Purpuratus, i, *m.* 2. Stor-herra, Konglegt leindarrad, Kongsins Har embættis-madur.

Purpurarius, a, um, sa sem heyrer til Purpura, officina purpuraria, Purpura litunar-hus.

Purpurasco, ere, 3. ad litast med Purpura-farva, ad glansa sem Purpure.

Purpuro, avi, atum, are, 1. *idem, poet:*

Purpurissum, i, *n.* 2. eitt slags farve, Lijf-farve.

Purpurisso, avi, atum, are, 1. eg lita med lijffarva.

PURUS, a, um, hreinn, sora laus, tahreinn, aurum purum, hreint Gull, 2. hreinn og heilagur, *comp.* ior, issimus.

Purè, hreinlega.

Puritas, tatis, *f.* 3. Hreinleike, *rarius tamen in usu.*

Purifico, avi, atum, are, 1. eg skíre, hreinsa af Synd og Saurendum.

Purificatio, onis, *f.* 3. Hreinsun.

Impurus, a, um, ohreinn, fleckadur, byadur, 2. otucktugur, vanvirdugelegur, liettferdugur, slæmur.

Impurè, o-hreinlega, *it.* slæmlega, voudslega.

Impuritas, tis, *f.* 3. Ohreinende, Saurende.

Impuratus, a, um, *idem quod*, impurus.

PUS, ris, *n.* 3. Grøftur, Vogur, Vilsa.

Purulentus, a, um, fullur af Vilsu og Grefte, ulcus purulentum, Grafftrar kaun.

Purulentè, eins og Vogur, so sem med Graftar Utferd.

Suppuro, avi, atum, are, 1. ad bolgna, og grafa.

Suppuratio, onis, *f.* 3. Bolga, Grøftur.

PUSIO, onis, *m.* 3. Dreing-korn.

Pusillus, a, um, dalijtell, *ut:* homo pusilli animi, Hugltell madur, lijtel-sigldur.

Perpusillus, a, um, yfer-burda dalijtell.

PUSuLA, æ, *f.* 1. lijtel Bladra, Voggrijs, *it.* Prote, Bolga i Limunum.

Pusulosus, a, um, sa sem hefur miked af soddann Blødrum og Voggrijsum, pecus pusulosa, fienadur fullur af Klada.

Pustüla, *f.* 1. Hitabladra, Bola a lijkamanum, pustulatum argentum, hreint og gott Sylfur.

PUTEO, ui, ere, 2. eg lykta illa.

Putidus, a, um, illa lucktandi, full, *transl.* putida oratio, slæm og opægeleg Ræda.

Putide, fylulega, fulslega, illa og andstiggelega, *sic tranl.* putidè loqvi, ad tala illmannlega, *comp.* tidius.

Putidiusculus, &

Putidulus, a, um, nockud full, sa sem lyktar af Fylu, lunpeñ, andstygge-legur, vidbiodslegur.

Putor, oris, *m.* 3. Fyla, Odaun, Olykt.

Putisco, ere, 3. eg tek til ad luckta illa, verda full.

PUTEUS, i, *m.* 2. Bruñur, Uppsprettा, Pittur.

Puteanus, a, um, & putealis, e, sa sem er ur Brunnenum, aqva putealis, *vel* puteana, Bruñvatn.

Putearius, ii, *m.* 2. sa sem grefur Brunn.

PUTO, avi, atum, are, 1. eg kvista, sneidi, afsnid, høgg

högg af, putare arborem, vitem; ad afkvista Eikena Viintried, 2. jeg reikna, putare rationes cum aliqvo, ad giøra Reikning vid einhvern, 3. jeg umþeinke, yfervega, gaumgiæfe, multa secum putare, ad þeinkia margt med sier, 4. ad meina, þeinkia, ætla, trua, hallda, 5. virda, skattera, *ut:* neminem præ se putare, ad virda eingan sier ædre.

Putatio, onis, *f.* 3. Afkvistan, Afsneiding.

Putator, oris, *m.* 3. sa sem afkvistar.

Putatorius, a, um, sa sem heyrer til afkvistun Triana, Falx putatoria, Snidell.

Putamen, inis, *n.* 3. Skel, Skurn, Nyt, Skorpa.

Amputo, avi, atum, are, 1. eg afhøgg, afsnid, amputare ramos, ad høggva af Kvistena, af-kvista, *transl.* amputare membra, ad aflima, pestiferum aliqvid in corpore reipub: amputare, ad giøra Landhreinsun, ad afliisa og uppræta þa a medal Folksens sem giøra Skada og Olucku.

Amputatio, onis, *f.* 3. Afsniding, Afkvistan.

Computo, avi, atum, are, 1. eg snid af, høgg af, 2. reikna.

Computatio, onis, *f.* 3. Reiknan.

Computabilis, e, reiknanlegur, reiknandi.

Deputo, avi, atum, are, 1. eg afsnid, 2. helld, virde, urskurda, deputare se qvovis malo dignum, ad reikna' sig hafa forþienad allt illt, deputare in lucro, ad hallda fyrer Abata, 3. deputare secum rationes, ad yfervega og reikna med sialfum sier.

Disputo, avi, atum, are, 1. eg þienke um eitt hlut, fære Rok til, er ad framberа minar Astædur med Ordum, eg disputera, disputare rem aliqvam & de aliqva re, ad disputera um einhvern hlut, disputare in alteram partem, ad disputera eda hallda þvert i mote.

Disputatio, onis, *f.* 3. Disputatia, Kappræda, disputationem ingredi, ad giefa sig i Rædu og disputatiu vid einn.

Diſputatiuncula, *f.* 1. *dim.* litel diſputatia, edur kappræda.

Diſputator, oris, *m.* 3. ſa ſem vel kann ad diſputera, og færa Rok til, og Beviſingar ſinne Meiningu.

Diſputatrix, *fæm:*

Diſputabilis, e, ſa ſem er ſoleidis, ad um hann ma hafa tvennar Meiningar.

Exputo, avi, atum, are, 1. eg afſkier, afſnid, hoggølldungis i burtu, formerke, ſæ ſkiled.

Inexputabilis, e, øgrijpanlegur.

Imputo, avi, atum, are, 1. eg reikna med Summūe, fære til Reikningsſkapar, ſet uppa Reikning, 2. tilreikna, ſkullda fyrer, imputare alicui fortunam, ad ſkullda einn fyrer þa Ogiæfu ſem hañ hefur hendt, adverſa alicui imputare, ad kienna einum ſijna Ogiæfu, crimen imputare, ad Skullda einn fyrer Glæp, imputare alicui beneficium, ad reikna einum til þann og þann Velgiorning.

Imputatus, a, um, tileignadur, tilreiknadur, 2. o-afkviſtadur, oruddur, vitis imputata.

Interputo, avi, atum, are, 1. eg hreinſa, kviſta af, hingad og þangad.

Opputo, avi, atum, are, 1. eg ſnid af allt um kring.

Perputo, avi, atum, are, 1. eg utſkyre, og beviſa klarlega.

Poſtputo, avi, are, 1. eg reikna, virde minna.

Reputo, avi, atum, are, 1. eg yfervega, gaumgiæfe, grunda, aliqvid ſecum reputare, ad yfervega eitthvad med ſialfum ſier.

Semiputatus, a, um, halfruddur, halfſtegldur.

Supputo, avi, atum, are, 1. eg høgg nedann af, 2. giøre Reikning, legg upp Reikningeñ, ſupputare rationem, ad reikna.

PUTRIS, e, roten, fuenn, uldenn, ſlepiadur, maltur, lagnadur, þrar, morkenn, putre ovum, ulded Egg putre ſolum, fueñ Jørd, 2. full, ſlæmur, lietſferdugur.

Putridus, a, um, rotenn, morkenn, putridi dentes, fular og lauſar Tennur.

Putredo, inis, *f.* 3. Forrotnan, Ylda, Fyla, Fue, Mellta, Prac.

Putror, roris, *m.* 3. *idem.*

Putresco, ere, 3. eg rotna, funa, ulldna, etc.

Computresco & imputresco, *idem.*

Exputresco, *fere idem.*

Putrefacio, ci, ctum, 3. eg feige, rota, ylde, skallda.

Putrefieri, ad rotna, fordiarfast.

PUTUS, a, um, hreirn, klar, it. einsamall, purum putum argentum, sooralaust Sylfur, purum putum mendacium, eckert annad enn Lyge.

PYCTES & pycta, *m.* 1. sa sem reiner sinn Fræckleik og Aflmune vid annaun, *græc:*

PYGA, *f.* 1. Lend, Ende.

Depygis, e, lenda-grañur, lenda-þunnur.

PYRA, *f.* 1. Rapta-budlungur, sem þeir Heidnu brendu a sijna framlidnu, *græc:*

PYRăMIS, idis, *f.* 3. har, uppmior Turn ferkautadur, *græc.*

PYRETRYM, *n.* 2. su Jurt, *græc:*

PYRGUS, *m.* 2. Teninga-Bolle, ur hverium kastad verdur Teningunum a Borded, *græc.*

PYRITES, æ, *m.* 1. Elldsteirn.

PYRōPUS, *m.* 2. einslags elldraudur Carbuncel steirn, edur Rubin.

PYRUS & Pyrum, *vide supra* pirum.

PYXIS, idis, *f.* 1. Doser, Baukur, *gr.*

Pyxidicula, *f.* 1. lijtell Baukur, edur Dos.

Pyxidatus, a, um, giordur sem Baukur, eda Dos.

## Q.

QVÆRO, sivi, situm, 3. eg uppleita, uppgøtva, it. þeinke um, er ad briota Heilann, radgast um vid Hug minn, non qvæsivit, ubi ipse tuto viveret, sed unde præsidio esset civibus suis, hann var ecke ad þenkia um þad, (briota Heilann um þad) hvar hann kynne ohulltur ad vera, helldur med hverium hætte hann kynne ad vera sinum Borgurum til Hlijfdar, 2. spyr epter, grenslast epter, qværere

ex, *vel* de, *vel* ab aliqvo, ad spyria einn ad, *hinc locutiones* qværat aliqvis, qværat fortasse qvispiam, nu kan skie einhver vilie spyria; nu mætte einhver spyria, qvid qværis, epter hveriu spyr þu, hvad villtu þa vita framar, 3. tek eitt Mal under Prof, Ransak, fer ad yferheyra Vitne i Søkenne, pijne þa til sagna, sem menn ætla ad dylie Sanleikann, qværere de aliqvo tormentis, *vel* per tormenta qværere, ad pijna einn til sagna, 4. eg utvega kemst yfer.

Qvæsitus, a, um, uppleitadur, uppþeinktur, meir af Sier-synne, Fordild og Brialseme, enn Naudsyn, qvæsita comitas, uppafunded Blijdlynde, (sem einum er ecke eigenlegt ad bruka,) qvæsita adulatio, fordildarlegt Sladur, qvæsitissimi honores, miøg fabreiteleg Lotning, fordildarleg Kurteise, epulæ qvæsitissimæ, þeir Rietter sem miøg miked er vidhaft, dyrendis Rietter, 3. Qvæsitum, *n.* 2. *absol.* Spursmal, it. feingner, utvegader Addrætter.

Qvæsitor, ris, *m.* 3. sa sem tekur vandamal under Prof og Ransak, Domare i Lijfs og Æru søkum.

Qvæstio, onis, *f.* 3. Spurning, Epterspurn, *hinc* in qvæstione est, *vel* qvæstio est, an, (qvis qvid &c. þad er Spurningenn, epter þvi verdur spurt, hvert, (hver, etc.) 2. Uppgøtvan, Uppleitun, in qvæstione esse, ad vera sa, epter hverium leitad er, epter hverium menn sækia, 3. Ransøkun og Epter-grenuslan, sem skiedur med Pintingum so einn bere Sanleikann, *unde* habere qvæstionem de servis, ad lata kvelia Prælana til sagna.

Qvæstiuncula, *dim: f.* 1. lijtel Spurning, qvæstiunculam alicui ponere, ad leggia, setia eina lijtla Spurning framm fyrer einn.

Qvæstor, ris, *m.* 3. Rentumeistare, item Radsmadur yfer konglegum Utgiølldum, Skattmeistare, Gialldkiere.

Qvæstorius, a, um, sa sem heyrer til Rentumeistara Embætte, vir qvæstorius, sa sem þionad hefur i Skattmeistara Embætte.

Qvæstorium, *n.* 2. Rentukamers, Rentumeistara Herberge Tialld.

Qvæstura, *f.* 1. Rentumeistara Embætti, edur þess sem hefur Umsion yfer Utgiølldum i Strijde.

Qvæstus, us, *m.* 4. Abáte, Grode, Avinningur, facere qvæstum in aliqva re, ad abata sig med einhverin, ad høndla med einhvern hlut sier til groda, qvæstum accipere, ad taka sier fyrer einhveria Sysslan sier til Abata.

Qvæsticulus, *dim. m.* 2. lijtell Abate, Agode.

Qvæstuosus, a, um, abatasamur, grodasamur; *comp.* sior, sissimus.

Qvæstuose, sissime, med storum Abata, Agoda.

Qværitο, avi, atum, are, 1. *freq:* eg spyr innelega epter, leita epter med alud.

Qvæso, *pl.* qvæsumus, *reliqvorum temporum & personarum usus nimis antiqvus est*, eg bid og spyr, eg villde giarnann spyria, deos qvæso, ut: þess villda jeg bidia Gud, ad, etc. *sic:* á te magnopere peto & qvæso, eg oska og beidest af þier mikelega, 2. kiære! qvæso qvid hoc est? Kiæri hvad er þad?

Acqviro, sivi, situm, ere, 3. eg utvega, fæ, næ, ødlast.

Anqviro, sivi, situm, ere, 3. eg leita epter vandlega, spyr innelega, it. tek til min, 2. sæke med Løgum og Riette, tala einum til a Þinge, anqvirere aliqvem capitis, *sive*, capite, ad tala uppa Lijfed, sækia þa Søk sem kostar Hals og Høfud.

Conqviro, sivi, situm, ere, 3. eg leita epter og utvega hvar eg kann, eg safna, sanka saman, conqvirere milites; ad safna Lide.

Conqvisitus, a, um, utvegadur, feingenn med Omake og Kostnadi, dyr, dyrmætur, sa sem miked hefur kostad, *sup.* issimus.

Conqvisitè, med Athygle, med Art, artuglega.

Conqvisitio, onis, *f.* 3. Utvegun, Samansafn, Feingur, conqvisitio exercitus, militum, strijds manna Utvegun, lidsafn.

Conqvisitor, oris, *m.* 3. einn af Stridshøfdingians halfu, settur til ad safna lidi, rada Soldata til Leidangurs-ferdar.

Disqviro, sivi, itum, ere, 3. eg ransaka, leita epter kostgiæfelega, spyr innelega epter.

Disqvisitio, onis, *f.* 3. Ransokun, Eptergrenslan, in disqvisitionem venire, ad verda ransakadur.

Exqviro, sivi, situm, ere, 3. eg spyr epter vandlega, leita miøg so epter, spyr mig grant fyrer.

Exqvisitus, a, um, feingen, utvegadur med storumkostnade med Konst og storre Fyrerhøfn tilreiddur, kostulegur, *ut:* philosophus exqvisita doctrina, Spekingur kostulega ypparlega lærdur, vir exqvisito judicio, madur med skørpum Heila, madur merkelega skiungur, exqvisitæ epulæ, kostuleger Riettir, vel tilbuner, *comp.* tior, tissimus.

Exqvisitè, vandlega, sierdeilis vel, kostulega, agiætlega; med storre Alud, *comp.* tius, tissime.

Inqviro, sivi, itum, ere, 3. eg spyr vandlega epter, leitast epter kostgiæfelega, grenslast mikelega epter, inqvirere de aliqvo, vel aliqvid, ad spyria sig fyrer um eitthvad, inqvirere in aliqvem qvid agat, ad grensla epter hia einhverium, hvad hann sie ad giøra.

Inqvisitio, onis, *f.* 3. Epterspurn, Epterleitne, Ransokun, eptergrenslan, Ransokn.

Inqvisitor, oris, *m.* 3. ransakare, sa sem epterspyr, grenslast epter, canis inqvisitor, Sporhundur.

Perqviro, sivi, situm, ere, 3. eg spyr grandvarlega epter, spyr mig fyrer med Alud.

Perqvisitè, ius, kostgiæfelega med Alud og Kostgiæfne.

Perqvisitor, oris, *m.* 3. ransakare, sa sem frietter einn ad eptergrenslast.

Reqviro, sivi, itum, ere, 3. jeg leitast epter kostgiæfelega,

felega, ſpyr mig fyrer aptur og aptur, it. *ſimpl.* leita epter, 2. utheimte, beideſt alvarlega: reqvirere auxilium, ad bidia um Hialp, beidaſt Hialpar, reqvirit hoc opus prudentiam, þetta Verk utheimter Forſialne, 3. ſpyr, ſpyr epter, ſpyr mig fyrer, reqvirere ab *vel* ex aliqvo, ad ſpyriaſt epter af einum.

QVALIS, e, hvilijkur hvad fyrer einn, item ſoddann ſem.

Qvalitèr, eins og, med ſama hætte og.

Qvalitas, tatis, *f.* 3. Aſigkomulag, Tilſtand; Art og Eigenlegleike, qvaliscunq; qvalecunqve, hvernenn ſem hann er, hvernenn ſem hann vera kann, hvernenn ſem hann vera vill, qvalitercunqvè, med hverium helſt hætte, i hvern hellſt handa mata.

QVALUS, *m.* 2. Syn-Korf, Tolaupur, Ullarbidna, Lippu-lar, Taga korf, qvalus ſaligneus, Vyderkorf.

Qvalum, *n.* 2. *idem.*

Qvaſillus, *m.* 2. & qvaſillum, *n.* 2, lijtel Korf, Kupa.

QVAM, ſem, *ut*: tam ſcio hoc verum eſſe, qvam me vigere, jeg er ſo viß um ad þetta er ſatt ſem jeg er lifande, non tam facile, qvam tu arbitraris; ecke ſo andvelldlega ſem þu meinar, 2. enn, helldur enn, *ut:* plura facis, qvam poſtulo, þu giører meira, enn eg bid umm, nihil aliud qvam, *idem*, eckert annad enn þad, ſalubrior eſt, qvam dulcior, hann er heilnæmare, enn hann er ſætur til, ſic qvam ut, en ad; *ut:* hoc majus eſt qviddam, qvam ut poſtulandum ſit, þetta er meira nockud, enn þad meige utheimta, 3. hverſu, qvam difficilis eſt hic labor, hvad torvelldt er þetta Erfidi, qvam pene, hverſu ſnarlega, it. hverſu giarnann, qvam vellem, hverſu villda jeg giarnann, it. ſo miked ſem, *ut:* qvam poſſum maximè, ſo miked ſem eg meſt kañ, 4. þvi framar, meira, *ut:* qvam magis repeto tam magis deſidero, þvi framar ſem eg itreka þad, þvi framar fæ eg Gyrnd til þeß, 5.

miøg,

miøg, *ut:* duxit exercitum, qvam proxime ad hostem, Hann sette Herenn nidur, miøg nærre, sem nærst Oviunnum, vixit mecum, qvam familiarissimè, Hann umgiekst med mier miøg þægelega, (vingiarnlega) i allra þægelegasta máta, opera qvam tenuis & levis, eitt Verk miøg lijtelfiorlegt og liettvægt, vox ad modum qvam svavis, nærsta miøg lifteleg og sæt Raust, 6. contra qvam, þvert a mote þvi sem, contra faciunt qvam promiserunt, þeir giøra þvert a mote þvi sem þeir lofudu, langtum ødruvyse enn þeir lofudu, 7. epter þad, fra þvi, *ut*: post nonum diem qvam id factum est, epter þann 9da Dag ad þad var giort, epter þann nijunda Dag, fra þvi þad var giort, postero die qvam illa acta erant, venit, Hann kom deigenum epter ad þad var giort.

Qvamdiu, hversu leinge? hvad leinge? so leinge, *ut:* tamdiu reqviesco, qvam diu ad te scribo, so leinge hvilest eg, sem eg skrifa þier til, hvad leinge sem eg er ad skrifa þier til þa nyt eg Hvildar.

Aliqvamdiu, nokra Stund.

Qvamlibet, þo ad, it. hvad *ut*: qvamlibet parum, þo ad þad sie lijted, hvad lijted sem þad er, corpora, qvamlibet excelsa, videntur minima, þo ad Lijkamarner synest haer, hvad haer sem Lijkarnarner sijnast, þa eru þeir þo hiner minstu.

Qvamobrem, hvar fyrer.

Qvam pridem, hvad langt er sijdann.

Qvam primum, hid allra fyrsta.

Qvamvis, þo ad, jafnvel þo, *& sic jungitur nominibus, participiis &c.*

Perqvam, miøg, harla miøg, perqvam breviter, miøg stuttlega.

Præqvam, ad reikna a mote, ad jafna vid, hia þvi, qvæ si laxioribus, paullo longioribusq; verbis (Catonis oratio) comprehensa est, præqvam illud græcum qvod diximus, hver ef innebundenn er i nokud leingre og langmæl-

mæltare ordum hia þvi sem, (ad jafna vid) þad Griska, sem vid vorum um ad tala.

Præter qvam & super qvam, fyrer utann þad.

Qvando, nær, hvad nær 2. þegar, 3. med þvi.

Qvandocunqve, nær sem hellst, a hverium hellst tijma 2. einusinne a sijnum tijma.

Qvandoq; *idem*.

Qvandoqvidem, med þvi.

Aliqvando, einhvern tijma. 2. stundum, 3. nu sijder.

Ecqvando, nær þa? hvad nær?

Neqvando, ad ecke nockurn tijma.

Siqvando, ef einhvern tijma, ef einusinne.

Qvanqvam, þo ad, jafnvel þo.

QVANTUS, a, um, hvad stor? hvad mikell? *gen.* qvanti, hvad dijrt? hvad kostar? fyrer hvad miked? *ut*: qvanti est? hvad kostar hann, hvad er hann dyr, qvanti venditur, emitur, æstimatur? hvad er hann selldur dijrt? hvad dijrt er hann keiptur, er hann skatteradur (virdtur) fyrer miked 2 so miked sem eg megna, qvantum potest vel pote, so miked sem skie kann, so miked sem møgulegt er 3. qvantus qvantus es, hvad stor sem þu ert qvanti qvanti bene emitur, qvod necesse est, hvad dijrt sem þad verdur keipt, hvad miked sem menn þurfa ad giefa fyrer þad sem naudsynlega þarf vid, 4. in qvantum, so miked sem, ad so miklu leite, 5. mirum qvantum, furdanlega miked, nimium qvantum, yferburda miked, immensum & immane qvantum, ofeigianlega miked.

Qvanto, hvad miked, qvanto nunc melius est, qvam antea, hvad miklu betra er þad nu enn adur, & *cum relativo* tanto, *ut*: qvanto diutius abest, tanto magis desidero, þvi leingur sem hann er i burtu, þvi meir sakna jeg hans, leinger mig epter honum.

Qvantopere, hvad storlega, hvad miked.

Qvantuscunqve, acunq;, umcunq;, hvad stor, hvad mikell, so mikell og stor sem

ſem, *ut*: totum hoc qvantumcunq; eſt, tuum eſt, þetta allt hvad miked ſem þad er, ſo miked er þad þitt.

Qvantuslibet, alibet, umlibet, hvad mikell, hvad ſtoor ſem hann er, ſo mikell (ſtoor) ſem hañ er, *ut*: qvantolibet honore dignus, hverſu mikels heidurs ſem hann kann ad vera verdugur.

Qvantusvis, avis, umvis, *idem*, *ut*, eſt qvantivis pretii, hann er miked koſtulegur, ſo dyrmætur ſem nokur kynne ad æſkia.

Qvantumvis, þo ad.

Qvantulus, a, um, hvad lijtell, ſolijtell, *ut*: qvantulum mihi memoriæ eſt, hvad lijted, (ſo lijted) Minne ſem eg hef, qvantuluscunq;, acunq;, umcunq;, ſo lijtell, hvad lijtell ſem hann er.

Qvantillus, a, um, hvad lijtell.

Aliqvantus, a, um, nockur, nockud ſtor.

Aliqvantò, nockud, aliqvanto amplius, nockud framar.

Aliqvantum, *idem.*

Aliqvantulus, a, um, nockud lijtell, lijtell partur, aliqvantulum agri, nokud lijted af Akrenum.

Aliqvantulum, *pro adv: poſitum*, nockud lijted.

Aliqvantiſper, um lijtenn tijma, um hrijd, nockra ſtund.

Qvare, *vide* QVIS.

QVASI, eins og, lijka ſem 2. hart nær, under þad, hier um.

Qvaſillus, *vide* QVALUS.

Qvatenus, *vide* tenus.

QVATIO, ſſi, ſſum, 3. eg uppa ſlæ, ſo þad ſkelfur, eg hriſte, ſkek, hrek einn hlut, hef hañ ſo i Skeſinum ad hann geingur ur lage, bromar i raſkaſt, qvaſſæ rates, hrakenn Skip, løſkud, og brotenn, 2. veifa, vijngſa, *ut*: qvatere haſtam, ad veifa Spiotenu, 3. qvati ægritudine, ad kremiaſt og plagaſt af Siukdome, 4. qvatere aliqvem foras, ad hneppa ein ut af Huſenu.

Qvaſſus, us, *m.* 4. Hriſting, Skickning, Hrakningur.

Qvaſſo, avi, atum, are, 1. eg hriſte, ſkek, qvaſſare caput,

capue, ad hrista Hofuded, 2. plaga, þvijnga, mæde.

Qvassatio, onis, *f.* 3. Hristing, Brock, Skock.

Qvatefacio, eci, ctum, 3. eg ynada, fære ur lage, hriste, skek, dusta, it. rek, drif burt, jaga fra.

Concutio, ssi, ssum, 3. eg skek, stiaka hardlega vid, hriste, 1. terra motu concussa est, Jordeñ skalf og titrade, 2. mædi, þvijnga, sturla, concutere rempublicam, ad hrella, mæda, þvinga Stiornar standed, concutere mentem, ad sturla Gieded, ad sla þad med Otta.

Concussus, us, *m.* 4. sterk Hræring, Hristing, Dust.

Inconcussus, a, um, stødugur, obifanlegur, oraskanlegur.

Conqvasso, avi, atum, are, 1. eg skiek, hriste, regio terræ motibus conqvassata, Landed var plagad af Jardskialftum, 2. fordiarfa, eidelegg, conqvassare nationes, ad fordiarfa, eideleggia Piodernar.

Conqvassatio, onis, *f.* 3. Ricking, Roskun, Hristing, Aflogun.

Decutio, ssi, ssum, ere, 3. eg slæ af, slæ nidur, decutere capita florum, ad sla Hnappana, eda Hofudenn af Blomstrunum.

Decussus, us, *m.* 4. Nidursleguing.

Discutio, cussi, ssum, ere, 3. eg hriste i sundur, slæ i stycke, 2. *metaph:* burtrijme, slæ burt, burtdrijf, discussa est illa caligo, þesse Poka er i burtu drifenn, discutere tristitiam, ad burtrijma Hrigdeñe, kasta fra sier Hrigdenne.

Discussorius, a, um, sa sem kañ ad rijma i burtu, sla fra, burtdrijfa.

Excutio, ssi, ssum, 3. eg slæ ut, hriste burt, kasta burt, excutere aliqvid in terram, ad kasta ut a Jordena, *metaph:* excutere de manibus studia, ad kasta sijnum Idkunum fra sier, excuti ab eqvo, ad detta af bake, excutere ignem lapide, ad sla Elld ur Tiñunne, excutere alicui dentes, ad briota ur einum Tonnurnar, excutere alicui lacrimas, ad pressa Tarenn ut af einum, excutere jugum, ad briota

af ſier Oked, 2. eg ut drijf, rek burt, *ut*: excutere aliqvem ſenatu, dignitate, patria, ad ſkufa einum burt ur Radenu, ſvipta hann ſinne Tign, reka hann i burtu af ſijnu Foburlande. excutere cubilibus feras, ad jaga Dyrenn i burtu ur ſijnum Hreiſum, 3. eg ſle i gegnum, geing i gegnum, *ut*: excutere omne ſcriptorum genus, ad ganga i gegnum allra handa Skrif og Fræde, explicare, & excutere verbum aliqvod, ad utſkyra, og ranſaka eitt ord grandvarlega, excutere aliqvem, ad leita a einhverium, og ſia hvad hañ hefur med ad fara.

Excuſſè, grandt, giørla, grandvarlega, vandlega, nakvæmlega.

Excuſſorius, a, um, i gegnum hvern eitthvad kann ad komaſt, hriſtaſt, cribrum excuſſorium, Salldur, Sija.

Incutio, ſſi, ſſum, ere, 3. eg ſlæ a, ſlæ iñ, incutere ſcipionem in caput alicujus, ad ſla Staf i høfudeð a einum, incutere colaphum, ad ſla einhvern Snoppung, 2. *transl.* incutere alicui timorem, terrorem, ad ſkiota einum Skelk i bringu, religionem animo alicujus incutere, ad giøra einum Samviſku.

Incuſſus, us, *m.* 4. Slattur.

Percutio, ſſi, ſſum, ere, 3. eg ſlæ hardlega, ſkel, percutere aliqvem lapide, manu, ad kaſta Steine a einhvern, ſla hañ med Hendenne, ſecuri aliqvem percutere, ad halshøggva eiñ, turris de cœlo percuſſa, Turneñ var ſleigeñ med Reidarſlage, 2. *transl.* percutere animum, cor alicujus, ad ſturla eins Siñe, angra hans Hiarta, percutere aliqvem palpo, ad ſmiadra framann i einn, 3. percutere fœdus, ad giøra Sattmala.

Percuſſio, onis, *f.* 3. Slag, Slattur, 2. percuſſionum modi, Sløg og Tacktar i Saung.

Percuſſor, oris, *m.* 3. Manndrapare.

Percuſſus, us, *m.* 4. Slattur, venæ percuſſus, Ædaſlattur.

Im-

Impercussus, a, um, ofstekenn, ofsleigenn.

Repercutio, ssi, ssum, ere, 3. eg slæ til baka, valles clamoribus repercussæ, Halsarner taka under af Hropenu og Kollunum, repercussum lumen, þegar sa Hlutur sem Liosed skyn a, slær aptur Byrtunne fra sier a þann Hlut sem honum er gagnvart; Lios edur Glampe sem kastast a bak aptur, 2. *transl.* repercutere dicta alicujus, ad reka einhvers ord til baka.

Repercussus, us, *m.* 4. & Repercussio, onis, *f.* 3. Slattur til baka.

Recussus, a, um, sleigenn til baka.

Recussus, us, *m.* 4. Slattur til baka, apturkast.

Succutio, ssi, ssum, ere, 3. eg hriste upp, currus succutitur, Vagnenn skockast upp, og hristest.

Succussus, us, *m.* 4. Skock, hristing, Brock.

Succusso, avi, atum, are, 1. *idem qvod* succutio.

Succussor *vel* succussator eqvus, sa Hestur sem skockar og brockar, illgeingur, klargeingur, brockur.

QATUOR, fiorer.

Qvartus, a, um, sa fiorde.

Qvartum, i fiordasinn.

Qvarto, *idem.*

Qvartanus, a, um, sa sem heyrer til þeim fiorda Hopnum, qvartani milites, striidsmenn af þeim fiorda Hop, 2. sa sem skiedur fiorda hvern dag, febris qvartana, þridia dags Kallda, sem kiemur Fiorda hvern Dag og lætur þria Daga a mille.

Qvartarius, ii, *m.* 2. fiorde Partur af einum Mæler, fiordungs-ker, Kvartel, Pele.

Qvater, fiorumsinnum.

Qvaterni, æ, a, fiorer og fiorer, 2. fiorer i Hop, fiorer i hlut.

Qvaternarius, a, um, sa sem heyrer til fiorum, numerus qvaternarius, þad tal 4.

Qvadrinus, a, um, *idem.*

Qvadraginta, 40.

Undeqvadraginta, 39.

Duodeqvadraginta. 38.

Qvadrageni, æ, a, fiorutiju i hlut, tvisvar 40.

Qvaterdeni, æ, a, id. 40.

Qvadragies, fiorutijusinnum.

Undeqvadragies, þriatiu og niusinnum.

Qvadragesimus, a, um, fertugaste, 2. qvadragesima, *abs.* fertugaste partur.

Undeqvadragesimus, a, um, þritugaste og niunde.

Duodeqvadragesimus, a, um, þrijtugaste og attunde

Qvadringenti, æ, a, 400.

Qvadringenties, 400. sinnum.

Qvadringentesimus, a, um, fiøgur hundradaste.

Qvadringeni, æ, a, 400. i hlut, 400. og 400. til samans, it. *simpl:* 400.

Qvadringenarius, a, um, sa sem heyrer til, eda er innefalenn i 400.

Qvatuordecim, 14.

Qvatuordecies, fiortansinnum.

Qvartus decimus, a, um, fiortandi.

Qvarta decumani, strijdsmenn af þeim fiortanda Hop.

Qvatuor viri, þeir fiorer Herrar, edur fiorar Yfervallds-personur.

Qvatuorviratus, us, *m.* 4. Fiogra-herra Umdæme.

Qvadriduum, *n.* 2 fiogra daga tijme 4. dagar.

Qvadriennium, ii, *n.* 2. 4. ar, fiøgra ara tijme.

Qvadrifariam, med fernt slag, i fiorfalldann mata, med fernu-moote.

Qvadrifidus, a, um, fiørkvijsladur.

Qvadriforis, e, fiordyradur sa sem hefur fiogur Gøt, eda Holur a fier,

Qvadrigæ, arum, *pl. f.* 1. Vagn med 4. Hestum, 2. 4. Hestar vid eitt Ok, *legit.* & *singul.* qvadriga, *sed rarius.*

Qvadrigulæ, arum, *pl. dim.* lijtell Vagn med 4. Hestum.

Qvadrigarius, a, um, sa sem heyrer til fiøgra Hesta vagne.

Qvadrigati, & qvadrigati nummi, einslags Mynt edur Peningar hia þeim Romversku med fiorum Hestum a.

Qvadrijugis, e, & qvadrijugus, a, um, sa sem hefur 4. Hesta fyrergangande, currus qvadrijugus, fiøgra Hesta-vagn.

Qvadrigeminus, a, um, ferfalldur.

Qvadrilibris, e, sa sem vegur fiogur Pund.

Qvadrimus, a, um, fiogra vetra.

Qvadrimulus, a, um, lijtell fiogra-vetra.

Qvadrimatus, us, *m.* 4. fiogra ara alldur.

Qvadripartitus, a, um, deildur i fiora parta.

Qvadrivium, ii, *n.* 2. fiogra Gatna mot, Kroß gotur

Qvadrupes, dis, *o.* 3. ferfættur, 2. ferfætt Dyr.

Qvadrupedans, tis, *o.* 3. *idem.*

Qvadruplus, a, um, fiorum sinnum stærre, ferfalldur, qvadruplo major alio, meir enn ferfalldur vid einn.

Qvadruplator, oris, *m.* 3. søgusinellta, sa sem fer med Frettaburd, og fær i stadenn fiorda partenn af þvi sem sa seke madur ma ute lata.

Qvadruplex, icis, *o.* 3. ferfalldur, fern-flags.

Qvadruplico, avi, atum, are, 1. eg ferfallda.

Qvadruplicatò, fiorumsiñum fiorumsiñum so miked.

Qvadrum, i, *n.* 2. ferhyrningur edur ferkøntud Mynd.

Qvadra, æ, *f.* 1. *idem*, 2 Skierdiskur ferhyrndur, 3. fiordi partur af einu stycke 4. ferkantad stycke, qvadra casei, fiorkantadur Ostur.

Qvadro, avi, atum, are, 1. eg giøre ferkantad, & *transl:* eg jafna vel nidur giøre riett og fullkomed, 2. *absol:* hæc in illum apta qvadrare videntur, þetta synest passa honum vel, heyra honum vel til.

Qvadratus, a, um, ferkantadur, ferhyrndur, 2. *trop.* þickur, gilldur, þrisleun, qvadrata statura, þickt og þristed vaxtar lag, qvadrati boves, þickver og feiter Uxar.

Qvadratio, onis, *f.* 3. fiogra kanta Smide edur Skøpun.

Qvadrans, tis, *m.* 3. fiorde partur af hverium hlut *ut:* qvadrans operæ, fiordi partur af dags Verkenu, qvadrans pedis, fiorde partur af Fete, þad er Þver hønd, edur 4. Fingur, 2. þryr tiundupartar af einum dønskum Skildinge, eda (epter þvi sem Kopar myntenn gieck a Døgum Augusti) eiñ fiorde partur af Skildinge, þad eru 3.

